VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Stéttasamvinna bundin í stefnuskrá
sjá baksíðu

Fjöldinn er ósigrandi
sjá bls.3

Nú eru vopnin látin tala
sjá bls. 3

Virk barátta alþýðu gegn kúguninni
sjá bls. 5

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L) 2.árg. 11. Tbl. nóv. 1976 100 kr.

## Fjöldahreyfing að frumkvæði fósturfélagsins

SKORTURINN Á DAGVISTUNARHEIMILUM UM ALLT LAND ER GÍFURLEGUR. T.D. ÞÝÐIR EKKERT FYRIR GIFT FÓLK AÐ SÆKJA UM DAGVISTUNARPLÁSS FYRIR BÖRN SÍN, UMSÓKNIR ÞESS ERU EKKI TEKNAR TIL GREINA ÞÓTT BÁÐIR FORELDRAR SÉU ÚTIVINNANDI VERKAFÓLK, ÞVÍ UMSÓKNIR EINSTÆÐRA FORELDRA OG NÁMSMANNA Á BIÐLISTUM SKIPTA HUNDRUÐUM.

KONA SÚ STARFANDI HJÁ SUMARGJÖF SEM TEKUR VIÐ UMSÓKNUM FRÁ FORELDRUM SKÝRÐI HIÐ HÖRMULEGA ÁSTAND Á FUNDI HJÁ FÓSTRUFÉLAGINU. STARFSHÓPUR Á VEGUM FÓSTRUFÉLAGSINS HEFUR NÚ HAFT FRUMKVÆÐI UM BARÁTTU FÓSTRA OG FORELDRA TIL AÐ KNÝJA Á RÍKISVALDIÐ UM ÚRBÓT: VERKALÝÐSBLAÐIÐ TÓK EFTIRFARANDI VIÐTAL VIÐ MÖRTU SIGURÐARDÓTTUR ÚR "FRUMKVÆÐISHÓP" FÓSTRA.

Vbl.: Hver er þáttur ríkisins í fjárframlögum til dagvistunarstofnanna?

M.S.: 1973 voru sett lög um þátttöku ríkisins í byggingu og rekstri dagvistunarstofnanna. Þar var kveðið svo á að sveitar og bæjarfélög fengju endurgreiddan helming byggingarkostnaðar. Þetta varð til þess að mörg sveitarfélög hófu dagvistunarbyggingar. Fyrir u.þ.b. ári síðan var kippt í burtu ákvæðunum um þátttöku ríkisins í rekstri dagvistunarstofnanna. Þetta er mikil afturför. Mörg félög hafa lýst vanþóknun sinni á þessari afturför en það hefur ekki dugað til.

Vbl.: Hvaða upphæð er áætluð í fjárlögum fyrir 1977 og fyrir hve miklu nægja þeir peningar?



Hér má sjá Mörtu Sigurðardóttur fóstru að störfum á vinnustað sínum, að barnaheimilinu að Holtaborg í Reykjavík. Eins og fram kemur í viðtalinu við Mörtu hér í blaðinu, er eftirspurn eftir plássum á dagvistunarstofnunum mun meiri en framboð.
(Mynd: VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

# Aukin verði fjárframlög til dagvistunarstofnana!

M.S.: Fyrir árið 1977 eru 85 milljónir áætlaðar í fjárlögum til byggingar dagvistunarstofnana um land allt. Þessi upphæð gerir ekki annað en greiða niður skuldir er hvíla á dagvistunarbyggingum sem þegar hafa verið teknar í notkun. Í Reykjavík hefur ekkert nýtt heimili tekið til starfa síðastliðið eitt og hálft ár.

Vbl.: Nú ætlið þið fóstrur að hafa frumkvæði um baráttu fyrir auknum fjárveitingum til fjölgunar dagvistunarplássa?

M.S.: Já, á fundi í stéttarfélagi okkar fyrir skömmu, kom í ljós hve slæmt ástandið er, t.d. bíða 407 börn eftir dagvistunarplássi í Reykjavík, en ég vil geta þess að einungis börn einstæðra foreldra og námsmanna eiga kost á dagvistunarplássi. 989 eru nú á biðlista eftir ½-dags leikskólaplássi. Eflaust myndu fleiri sækja um, ef þeir héldu að það væri til einhvers.

Á þessum fundi okkar, var einnig myndaður starfshópur 5 fóstra og ætlum við að gangast fyrir fundi 1. nóvember og þangað yrðu boðaðir fulltrúar frá ýmsum hagsmunahópum. Þess má geta að á barnaheimilum sem rekin eru í tengslum við sjúkrahús ganga börn hjúkrunarkvenna og lækna fyrir um pláss en sjúkraliðar og gangastúlkur sitja á hakanum.

Vbl.: Hvað viltu segja að lokum?

M.S.: Það ætti að vera sjálfsagður réttur hvers barns að komast á dagvistunarstofnun þar sem þau geta þroskast í félagsskap annarra barna og undir handleiðslu okkar. Við í starfshópnum vonumst eftir að með samstöðu nógu margra en þetta mál varðar hagsmuni alls almennings, muni okkur takast að ná fram breytingum á frumvarpinu til fjárlaga þannig að alla vega vinnist

Frh. á bls. 5

## Mjólkurbúðamálið: STÓRSIGUR BARÁTTUSTEFNU Í ASB

Í síðasta Verkalýðsblaði var fjallað um væntanlegar kosningar í félagi afgreiðslustúlkna í brauða- og mjólkurbúðum. Úrslit kosninganna urðu þau að B-listi, listi baráttukvennanna sem dyggilega hafa barist gegn lokun mjólkurbúðanna, vann sigur með 116 atkv gegn 73. A-listinn var borinn upp af Hallveigu formanni ASB og öðrum þeim konum sem reynt hafa með öllu hugsanlegu móti sverta og vinna gegn baráttu stéttvísu kvennanna. Forstjóri Mjólkursamsölunnar hefur t.d. oft sagt að búðunum myndi hafa verið lokað þegjandi og hljóðalaust ef ekki hefði komið til barátta og samstaða meirihluta kvennanna í ASB og neytenda, því að Hallveig og hennar fylgifiskar hefðu alltaf haft svo góða samvinnu við Samsöluna.

Löngu fyrir kosningarnar fengu Hallveig og hennar fylgikonur leyfi frá störfum og gengu á milli allra mjólkurbúða á Reykjavíkursvæðinu og vildu skrifa afgreiðslustúlkurnar niður á vinnumiðlunarlista. Höfðu þær fögur orð um að útvega konum vinnu. Þetta var auðvitað bara ódýr kosningabrella. Konurnar vissu að flestir þeir kaupmenn sem vilja taka til sín mjólkursölu, munu aðeins bæta við sig einni stúlku, þó að þeir taki við búð þar sem 2-3 stúlkur hafi áður unnið.

Listi Hallveigar var studdur af Alþýðubandalagsforustunni, formaður kjörstjórnar, Halldór Björnsson ritari í Dagsbrún, rægði konurnar á B-lista og listi Hallveigar hafði aðsetur á skrifstofu Dagsbrúnar. Geta því allir séð hvernig staðið var að kosningunni af hálfu A-listans.

### Staðan í baráttunni í dag

Lilja Kristjánsdóttir er formaður samninganefndarinnar sem kosin var af félagskonum í ASB síðast þegar fundur var haldinn í félaginu, en Hallveig formaður hefur hins vegar brotið lög félagsins með því að halda ekki fund í félaginu mánaðarlega frá vetrarbyrjun. Að sögn Lilju fór nefndin

Frh. á bls. 5

## Landhelgismálið
# RÁNYRKJA ER STAÐREYND!

Árið 1975 voru veiddar um 266 þús. lestir af þorski við Ísland af íslenskum skipum. Þorskafli útlendinga var á sama tíma um 105 þús. lestir. Þorskaflinn sem íslendingar veiddu var um 27% af heildarfiskafla ársins, en hins vegar nam verðmæti þorsksins 56% af heildarverðmæti fiskjar.

Á 20 árum hefur þorskstofninn við Ísland minnkað úr 2.6 milljón lestum í um 1 milljón lesta. Fiskifræðingar hafa sagt, að árið 1976 mætti ekki veiða hér við land meira en 230-280 þúsund lestir. Eins og málum er háttað nú, er ekki annað fyrirsjáanlegt en að veiddar verði yfir 320

Frh. á bls. 2




Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# YLRÆKT AUÐHRINGA

LAUSBEISLUÐ EÐA ALLS ÓNÝTT ORKA HEFUR LENGI VERIÐ "AÐALSMERKI" ÍSLENSKS AUÐVALDSÞJÓÐFÉLAGS. AUÐVALDIÐ LEITAR EFTIR SEM MESTUM GRÓÐA, EN TEKUR ALDREI MIÐ AF ÞVI SEM HÆGT ER AÐ GERA FYRIR ALÞÝÐUNA

Kísiliðjan og álver.

Þannig voru gufuvirkjanir til raforkuframleiðslu óþekkt fyrirbrigði hérlendis í áratugi, þó svo að orkuskortur hrjáði byggðalög þar sem næg gufuorka er fyrir hendi. Fyrst þegar bandaríski auðhringurinn Johns-Mansvill Corp. gat spýtt fjármagni í ríkissjóð og gefið auðvaldinu gróðavon með Kísiliðjuni var fyrsta gufuaflsstöðin reist.
Nú er norski auðhringurinn ELKEM-SPIGER-VERKET að hrista sjóði sína framan í kreppuþjáð íslenskt auðvald. Þá er rokið í Kröfluvirkjun, eftir að þingeyskir bændur höfðu réttilega sprengt Laxárvirkjunardrauma þess í loft upp, og öllum framkvæmdum hraðað þrátt fyrir yfirvofandi eldgos.
Hvatinn að Kröfluvirkjun voru áætlanir um álver við Eyjafjörð, það sást á skýrslum sem bárust Orkustofnun um 197o. Þá var það Sviss Aluminium Company (Straumsvík) sem "hafði áhuga" - nú er annað fyrirtæki tekið við og breytir það engu. Þetta sýnir hvað stjórnar orkustefnu auðvaldsins: Gróðavonin.

Ylrækt : Fyrir hvern?

Enn vantar hitaveitu í mörg byggðalög og bæi á Íslandi, þótt nóg sé vatnið. Á sama tíma er verið að kanna útflutning á heitu vatni til Svíþjóðar! Enn sama viðmiðun og varðandi gufuaflsvirkjanir. Svipuðu máli gegnir um ylrækt. Á annað hundrað þúsund fermetrar lands eru nú í upphituðum gróðurhúsum. Blóm, tómatar og agúrkur eru aðalræktunartegundirnar.
Réði alþýða málum myndi hún margfalda ylræktina og stefna að því að þjóðin yrði sjálfri sér nóg með grænmeti og ávexti - við það minnkaði gróði heildsala, ríkisins, atvinnurekenda ofl. En auðvitað stefnir borgarastéttin og ríki hennar ekki að þessu - þau öfl miða við eigin hag sem er annar og andstæður alþýðunni. Þess vegna eru dyrnar opnaðar Philips-auðhringnum hollenska, og honum boðið að rækta hér stofublóm handa fólki í Evrópu. Philips er ætlað að eiga um 25% í fyrirtækinu, en ríkið verður 3o-5o% hluthafi. Auk þess gína auðhringar og stórfyrirtæki á Íslandi við tilboði hollendinganna,t.d. Kassagerðin vegna umbúða og Flugleiðir vegna loftflutninga á blómum.

Er rétt að snúast gegn ylræktarverinu?

Flestir Hvergerðingar vilja fá ylræktarverið til sín. Afstaða vinnandi fólks í Hveragerði er skiljanleg þar eð dauft er yfir atvinnulífi á staðnum og dagvinnukaup langt undir því að duga til framfærslu.
En skoði menn málin betur sést að taka ber upp baráttu gegn iðnaðarstefnu af því tagi. Hún grefur undan efnahagslegu sjálfræði landsins, og er andstæð hagsmunum fjöldans varðandi raforkumál, ylrækt og húsahitun. Hún hvetur ekki fjöldann til að treysta á eigið afl, reisa íslenska stóriðju undir veldi verkalýðs og alþýðu og berjast fyrir hagsmunum sínum.
Alþýðan þarf ekki stóriðju innlendra og erlendra auðhringa til að sjá sér farborða. Hún getur barist fyrir bættum kjörum og þjóðfélagsvöldum og neytt auðvaldið til undansláttar og uppgjafar, og síðan byggt sín eigin ylræktarver í sína þágu.

# Alþýðubaráttan rís á ný!

Síðastliðin tvö ár hefur kaupmáttur launa minnkað jafnt og þétt, t.d. um tæp 20% á yfirstandandi ári. Að auki hafa atvinnurekendur og ríkisvaldið aukið vinnuálagið til að komast enn frekar hjá kreppunni, sem hrjáir nágrannalöndin. Má nefna, að grunnkaup flests vinnandi fólks er um helmingur þess sem þarf til lífsframfæris og að meðalvinnutími verkafólks er um 50 tímar á viku, sem er a.m.k. 10 tímum of mikið. Þegar svo skattaálögurnar eru teknar inn í dæmið, er augljóst að kjör eru mjög slæm og fara sí-versnandi.

Verkalýðshreyfingin í heild tekur ekki upp fjöldabaráttu fyrir bættum kjörum, en nöldrar og rekur sáttastefnu við atvinnutekendur og ríkið. Þetta ástand er flestum óþolandi og leggja æ fleiri hópar vinnandi fólks út í baráttuna upp á eigin spýtur. Árið 1975 riðu starfsmenn í verksmiðjum KÁ á Selfossi á vaðið, síðan starfsfólk Áburðarverksmiðju ríkisins, loks verkakonur á Akranesi. Vannst mikill sigur í öllum þessum verkföllum.

Ný alda með baráttu mjólkurbúðakvenna

Ný alda hófst með mjólkurbúðakonunum, sem enn berjast gegn Samsölunni, til að halda atvinnu sinni. Í kjölfarið hafa fylgt sjómenn, röntgentæknar, hjúkrunarfræðingar, sjónvarpsmenn, útvarpsmenn, barnaskólakennarar og nú síðast fóstrur.

Allar þessar aðgerðir eru í raun framkvæmdar í trássi við forystu verkalýðshreyfingarinnar og hina borgaralegu stjórnmálaflokka, þar á meðal Alþýðubandalagsins.

Þetta sýnir að verkafólk og önnur vinnandi alþýða velur leiðir stéttabaráttunnar í vaxandi mæli, og þá einu réttu - að treysta eigin afli og leiðsögn. Atvinnurekendur og ríkisvald þeirra er lafhrætt við þessa nýju hreyfingu og reynir að koma í veg fyrir hana og uppræta með öllum ráðum. Leiðirnar sem þeir telja vænlegastar til þessa eru t.d.:

1. Að beita "verkalýðsforystunni" sem þeir hafa þegar í sínum vasa.
2. Að hóta uppsögnum og öðrum refsiaðgerðum.
3. Að breyta vinnumálalöggjöfinni þannig að öll "barátta" fari fram á þeirra vegum og bak við tjöldin.

Hvað ber að gera?

Til þess að baráttan eflist og leið til fleiri og enn meiri sigra, þarf órofa samstöðu og virka þátttöku margra fleiri, bæði í baráttunni fyrir bættum kjörum og gegn aðgerðum ríkisvaldsins og atvinnurekenda. En það dugar samt ekki eitt til. Fólk verður að snúa alveg baki við núverandi forystumönnum verkalýðshreyfingarinnar og stjórnmálaflokkum þeirra. Hlutverk þeirra er enda ekkert annað en það að afvegaleiða fjöldann í öllum hans athöfnum.

Þess í stað verður að byggja upp úr eigin röðum stjórnmálaflokk verkalýðs og alþýðu - kommúnistaflokkinn - sem einn getur leitt baráttuna þegar til lengdar lætur, og tvinnað saman efnahagslegu og pólitísku baráttuna.

## Rányrkja...

Frh. af forsíðu

þúsund lestir.

Af þessum staðfestu staðreyndum má tvennt vera ljóst:

1. Þorskstofninn er kominn langt undir hámarksstærð, þ.e. smáfiskur er nú drepinn miskunarlaust.

2. Enn er ásókn í þorskstofninn hert, "efnahagsmálin leyfa ekki samdrátt í ásókn" sagði raunamæddur Matthías sjávarútvegsráðherra í haust.

Það má því ljóst vera af framansögðu, að það sem er nú að gerast á miðunum við Ísland, er ein allsherjar útsæðisveisla íslenskra og erlendra auðhringa og útgerðarjöfra. Til þess að forða hruninu í bráð, er reynt að veiða og drepa nytjafiskinn svo lengi sem nokkur uggi finnst í sjónum.

Berjumst gegn rányrkjunni!

Hafið samband við nýstofnuð Landhelgissamtök. Þau eru fjöldasamtök sem ganga þvert á pólitískar flokkalínur.

Hafið samband við:
Önnu Jónsdóttur, sími 73093
Pál Stefánsson, sími 16871

# KREPPA

## Hvers vegna verðbólga?

Heimskreppan mikla.

Borgaralegir hagfræðingar neituðu því allt fram til ársins 1929 að kreppur væru óhjákvæmilegir fylgifiskar auðvaldsskipulagsins. En kreppan mikla, sem hófst 1929, neyddi þá til að viðurkenna tilveru kreppufyrirbærisins. Upp úr 1. heimsstyrjöldinni þróuðust framleiðsluöflin hratt í heimsvaldaríkjunum. Auðherrarnir fjárfestu í nýjum vélum og tækjum og kapphlaup hófst um heimsmarkaðina. En svo fór að framleiðslan fór langt fram úr því að uppfylla eftirspurnum - offramleiðsla á vörum varð staðreynd. Gróði auðherranna minnkaði, þar sem eftirspurn eftir framleiðslu dróst saman og þeir hættu að kaupa nýjar vélar; framleiðslutækjaiðnaðurinn hrundi saman. Þannig var ástandið í Bandaríkjunum 1929. Enginn auðherra kærði sig um að setja fé sitt í iðnaðinn, þar sem svo mörg fyrirtæki voru á hausnum. Þeir vildu heldur setja auð sinn í banka, kaupa landareignir, málverk eða skartgripi.

Orsakir.

Orsaka kreppu er að leita í þróun framleiðsluaflanna. Stóru einokunarauðhringarnir eru alþjóðlegir í eðli sínu og eiga fyrirtæki í mörgum löndum. Þegar einn slíkur hringur fer halloka í samkeppni og þarf að leggja niður fyrirtæki sín, hefur það þannig áhrif á atvinnulíf í mörgum löndum. Þetta leiðir til minnkandi eftirspurnar, vegna atvinnuleysis, og það leiðir svo til þess að aðrir auðherrar eiga í erfiðleikum með sölu framleiðslu sinnar. Auðmagnið er fest í fyrirtækjum um allan heim, það er í eigu örfárra aðila og því varðar slík kreppa allan auðvaldsheiminn! Með þetta í huga getum við skilið hvers vegna kreppan nú síðustu árin hefur haft áhrif á heimsmælikvarða. Það er bein afleiðing af einokunarstigi auðvaldsskipulagsins og alþjóðalegu eðli einokunarhringanna.

Verðbólga.

Borgaralegi breski hagfræðingurinn, Keynes, ungaði út kenningu um aðgerðir gegn kreppum. Keynes sagði, að ríkið ætti að grípa inn í gang mála og kaupa upp þær vörur sem auðherrarnir gætu ekki selt! Þannig ætti ríkisvaldið að koma í veg fyrir að auðherrarnir hættu að fjárfesta í iðnaði, líkt og gerðist í Ameríku í lok 3. áratugsins.

En hvaðan áttu aurar ríkisins að koma? Jú, Keynes stakk upp á því að ef nauðsyn krefði þá ætti ríkið að eyða meiru fé en sem næmi því sem það fær með skattheimtu. Þetta getur ríkið aðeins gert með því að stofna stöðugt til skulda.
Ef einhverjum auðherranum dytti hins vegar í hug að láta frá sér auð sinn, án þess að festa það í einhverju gróðavænlegu - hlaða upp auðmagni - þá færi sá góði maður snarlega á hausinn.

En hvernig getur þá ríkið þetta?

Í stórum dráttum getum við sagt, að það sé vegna þess að ríkið á seðlabankann, hvern í sínu landi, og seðlabankarnir sjá um seðlaprentun. Það sem ríkið gerir, en einfaldlega það að láta prenta auka-peningaseðla.

Hvað eru þá peningar?

Peningar í umferð í landi svara til þeirra efnisverðmæta sem í landinu eru (landareignir, hús, vélar, tæki og vörur sem framleiddar hafa verið). Til dæmis er Morgunblaðshöllin í Reykjavík talin til efnisverðmæta á Íslandi, en sjálft Morgunblaðið hins vegar ekki. Þetta stafar af því að obbinn af daglegu upplagi Moggans lendir blessunarlega á ruslahaugum, en Moggahöllin heldur áfram að vera til, a.m.k. enn um sinn! Þessi efnisverðmæti í landinu aukast lítillega ár frá ári og ríkið eykur því peningamagnið í umferð sem því nemur (og gott betur).

Ef ríkið reynir nú að leysa mótsetninguna á milli mikils framboðs á vörum og lítillar eftirspurnar með því að kaupa þær fyrir verðlausa umfram - peninga, þá hækkar verðlagið. Alltaf þarf fleiri og fleiri krónur til að kaupa sömu vöruna, og á endanum fer ríkið á hausinn, þar sem allir skulda öllum og enginn hefur efni á því að framleiða(ath. þróunina á Íslandi síðustu árin og berið saman við framansagt).

Þetta nefnist verðbólga.

Þessi aðferð, þ.e. að gefa út marga peninga, er ekki nýtilkomin. Hún hefur verið notuð í aldir, þegar valdastéttir hafa reynt að lengja lífdag sinn.

Í hinu síðrómverska þrælasamfélagi var t.d. algengt að þrælaeigendur blönduðu kopar í gull sitt með þeim afleiðingum að verðlag óð upp úr öllu valdi.

## Röntgentæknar:
# EKKERT SVAR FRÁ RÍKI

Verkalýðsblaðið hafði samband við Arngrím Hermannsson trúnaðarmann röntgentækna á Landsspítalanum, til að spyrja hann um gang mála í kjarabaráttu röntgentækna.

Arngrímur sagði að ríkisvaldið hefði enn ekki við þá talað. Nefndi hann að röntgentæknar á Borgarspítalanum væru í mun betri aðstöðu en þeir á Landsspítalanum, þar sem þeir væru mun fjölmennari en borgin semur við þá.
Því vilja röntgentæknar á Landsspítalanum ganga inn í væntanlega samninga borgarinnar við röntgentækna á Borgarspítalanum.

Augljóst er að leggðu röntgentæknar á Landsspítalanum niður störf gætu aðeins hjúkrunarkonur gengið inn í störf þeirra. Þær hafa náð mun betri samningum en þeir, ríkisvaldið myndi tapa á því, því er augljóst mál að til þess yrði ekki horfið.

Ríkisvaldið hlýtur að kalla röntgentækna til samninga rétt um það leyti er þeir leggja niður störf(2o.nóv.) Það neyðist til þess.
Verkalýðsblaðið hvetur röntgentækna til að halda fullri samstöðu og láta engan bilbug á sér finna í baráttunni.




### Fulltrúar P.A.C. Asaníu:


Hér eru þeir félagarnir Vuyana Mnqaza og Mfanasekaya Gqobose (Mynd: VERKALÝÐSBLAÐIÐ)

# Nú eru vopnin látin tala

–VIÐ HÖFUM ÁTT MJÖG ÁNÆGJULEGA DVÖL Á ÍSLANDI ÞESSA FÁU DAGA OKKAR HÉR, OG VIÐ VONUMST TIL ÞESS AÐ VIÐ HÖFUM GETAÐ VARPAÐ LJÓSI Á ÞÁ ATBURÐI SEM GERAST NÚ Í AZANÍU (SUÐUR-AFRÍKU). VIÐ HÖFUM ORÐIÐ VARIR VIÐ VÍÐTÆKA SAMSTÖÐU MEÐ BARÁTTU OKKAR.

Þannig sagðist fulltrúum frelsishreyfingarinnar Pan African Congress (PAC) frá í samtali við Vbl., þegar þeir voru hér á landi í boði EIK(m-l). Fulltrúar PAC voru þeir Mfanasekaya Gqobose aðalféhirðir PAC og Vuyana Mngaza fulltrúi PAC í London.

Vbl.: Getið þið lýst því sem nú er að gerast í Azaníu?

– Alþýðan í Azaníu hefur gripið til vopna gegn kynþáttakúgurunum. Það er vakning meðal fjöldans til margefldrar baráttu. Ástandið er því okkur byltingarmönnum mjög í hag.

Uppreisnir þær sem þið hafið heyrt hér um í fréttum, byrjuðu í borgunum en hafa nú breiðst út um þorp og sveitir. Vorster-stjórnin hefur viðurkennt í verki, að hún hefur ekki tök á að berja frelsisbaráttuna niður. Innanríkisráðherrann hefur til dæmis hvatt til þess að "öryggisgæslan" verði enn aukin, t.d. með því að herinn grípi beint inn í atburði sem gerast – komi lögreglunni til aðstoðar þegar þörf krefur.

Við höfum líka séð að viðbrögð lögreglunnar við uppþotum, einkennast nú framar öllu af hiklausum skothríðum á fólk á götum úti. Mörg hundruð manna hafa fallið vegna þessa og mörg þúsund hafa særst í skotárásum. Auk þess fjölgar handtökum á blökkufólki stöðugt. Í fangelsum Vorster-fasistanna sitja þúsundir baráttumanna, án þess að nokkur maður fái að heimsækja þá. Enginn veit því með vissu um þær raunir sem þeir ganga í gegn um.

Vbl.: Eru ítök erlendra auðhringa ekki mikil í Azaníu?

– Jú, t.d. eru 65% allrar fjárfestingar í landinu í eigu bandarískra aðila og franskir, ítalskir, japanskir og V-þýskir aðilar eiga fjárfestingar þar líka. Skandinavískt auðmagn hefur líka komið inn í Azaníu, en í minni mæli.

Þegar áður en uppreisnir hófust í Aoweto, var komin efnahagskreppa í Azaníu. En uppþotin og verkföllin á síðustu mánuðum hafa skelft vestræna auðmenn dálítið. Stjórnvöld reyna því með öllum ráðum að berja uppþotin niður, svo auðherrarnir hætti ekki að fjárfesta í landinu. En kreppueinkenni, atvinnuleysið og verðbólgan, setja sitt mark á þjóðlífið.

Tvær línur í baráttunni.

Vbl.: PAC leggur áherslu á vopnaða baráttu alþýðu Azaníu gegn kynþáttakúgurunum. Þýðir það að þið hafnið "samningsleiðinni" sem hvítu kúgararnir í Afríku flagga svo mjög um þessar mundir?

– Aðeins vopnuð barátta leiðir til raunverulegs frelsis. Línurnar í frelsisbaráttunni eru tvær, byltingarsinnuð og umbótasinnuð. PAC fylgir þeirri fyrrnefndu.

Við berjumst í fyrsta lagi fyrir pólitískri valdatöku í Azaníu. Í öðru lagi viljum við leiða byltinguna í sveitunum, m.a. skipta upp jörðum. Á þetta leggjum við megináherslu. Í þriðja lagi stefnum við að uppbyggingu sósíalísks ríkis, alræðis öreiganna.

Þessi pólitík okkar er í grundvallaratriðum ólík pólitík samtakanna ANC og hins endurskoðunarsinnaða "Kommúnistaflokks" Suður-Afríku, (KFSA). Auk þessa vísum við á bug öllum hugmyndum um frelsun Azaníu með beinni íhlutun frá öðrum löndum, eða það að styðja annað tveggja stórveldanna gegn hinu.

Við eigum mjög góð samskipti við þá félaga ANC sem gert hafa upp við pólitík KFSA. Í sameiningu myndum við samfylkingu gegn kynþáttakúguninni.

Vbl.: Að lokum, hver er ykkar afstaða til brölts Henrys Kissingers í hinni suðlægu Afríku þessa dagana?

– Kissinger er órólegur vegna þess að hin vopnaða barátta alþýðunnar í Afríku ógnar hagsmunum bandaríska auðvaldsins þar. Hann er að reyna að stöðva vopnaða baráttu ZANU-hreyfingarinnar sem nú berst í Zimbabwe (Ródesíu). Kissinger er aðeins að leggja drögin að endurskipulagðri nýlendustefnu í Suður-Afríku. PAC fordæmir afskipti hans algerlega.

## Frásagnir þýskra kommúnista: 2.grein

# Lögreglan myrðir saklaust fólk


Karin Wagner í kröfugöngu (Mynd: ROTER MORGEN)

Í sífellt auknum mæli notar borgarastéttin (auðherrarnir) valdbeitingu lögreglu gegn verkafólki í verkföllum í V-Þýskalandi. Til dæmis var verkfall faglærðra verkamanna í Köln árið 1974 brotið á bak aftur af lögreglumönnum vopnuðum kylfum. Herinn í landinu er þjálfaður með það fyrir augum að geta ráðist inn í og tekið með valdi verksmiðjur og íbúðahverfi.

Æ oftar kemur það fyrir að vinnandi fólk er hreinlega skotið til bana af lögreglu, undir því yfirskini að um sé að ræða nauðvörn af hálfu lögreglunnar eða vegna gruns um að hinn látni hafi verið meðlimur í "glæpsamlegum samtökum".

Við réttarhöld vegna vinnudeilna yfir saklausum félaga í Kommúnistaflokki Þýskalands ML – KPD/ML – var meðal áheyrenda annar félagi í flokknum, verkamaðurinn Günter Routhier. Hann var laminn svo harkalega af óeinkennisklæddum lögreglumönnum, sem voru dreifðir meðal áheyrenda, að hann lést 10 dögum síðar af völdum heilablóðfalls.

"Sannleiksást" fjölmiðlanna

Í öðrum löndum er að vísu oft fjallað um "Berufsverbot" (atvinnubann), en það eru lög sem banna fólki sem grunur leikur á að hafi eða sé meðlimir í "vafasömum" samtökum, að vera í opinberum stöðum í landinu. Sérstaklega er þessa gætt varðandi kennarastöður. Einnig hefur verið skýrt frá réttarhöldum yfir RAF-föngunum (Baader-Meinhof). Á hinn bóginn heyrist ekkert í fréttum erlendis um það að verkafólki sé sparkað út af vinnustöðum sínum vegna þess að það sé hafi byltingarsinnaðan og kommúnískan hugsunarhætti. Alls ekkert heyrist um að borgarastéttin myrði og drepi vinnandi fólk og kommúnista. Engar fréttir berast heldur um það, að ritstjórar kommúnískra blaða séu hnepptir í varðhald, líkt og tíðkaðist á dögum Hitlers. Þannig fékk félagi Gerhard Scubert fyrrverandi ábyrgðarmaður og ritstjóri Roter Morgen (Málgagns KPD/ML) eins árs fangelsi, Karin Wagner fyrrv. ábyrgðarmaður og ritstjóri Roter Morgen hlaut 4 mánuði í fangelsi fyrir það eitt að kalla vesturþýska ríkisvaldið heimsvaldasinnað kúgunartæki og fyrir það að segja að hlutverk ríkisvaldsins sé að halda baráttu verkafólks niðri.

Í júlí s.l. varð ábyrgðarmaður dreifirita útgáfu "Roter Hilfe Deutshlands" (stuðningssamtök við pólitíska fanga) dæmdur í 7 mán. fangelsi. Samtals hafa 10 félagar í KPD/ML verið dæmdir í allt að 18 mánaða fangelsi. Fimm þeirra

Frh. á bls. 5

## KINA

# Fjöldinn er ósigrandi



Síðustu vikur hafa tugmilljónir alþýðufólks flykkst út á götur og torg í kínverska alþýðulýðveldinu og lýst stuðningi sínum við Kommúnistaflokk Kína (KFK) og formann hans, félaga Hua Kuo-feng. Borgaralegu fjölmiðlarnir hafa hvergi sparað tíma og rúm, til þess að "skýra" atburði í Kína upp á síðkastið. En auðvitað er alltaf viðkvæðið úr þeirri áttinni það sama: "valdabaráttan fer harðnandi" osfrv. Borgararnir reyna alltaf að persónugerva stjórnmálabaráttu til þess að fela kjarna hennar, stéttabaráttuna. Skiptir þar engu hvort talað er um forsetakosningarnar í USA eða baráttuna fyrir sósíalisma í Kína. Við ætlum aðeins að minna á nokkrar staðreyndir í sambandi við atburði í kínverska alþýðulýðveldinu upp á síðkastið.

Biturleiki í garð fjórmenninganna.

Sænski rithöfundurinn og Kínavinurinn Jan Myrdal, sendi á dögunum frá sér grein, en hann er nú staddur í borginni Tsingtao í Kína.

–Minnihlutahópurinn innan kommúnistaflokksins, sem nú hefur tapað stöðum sínum, skreytti sig með ofur-byltingarsinnuðum slagorðum, skrifar Myrdal. Hann segir að fjórmenningarnir, sem eru í fararbroddi fyrir þeim sem berjast fyrir rangri stefnu flokksins, þau Wang Hung-wen, Chang Chun-chiao, Chiang Ching og Yao Wen-yuan, eru á línu sem er í meiriháttar atriðum andstæð línu 4. alþýðuþings kínverja árið 1973. Þar voru lagðar línur fyrir uppbyggingu og baráttu í landinu út yfirstandandi áratug. Sú lína gekk meðal annars út á aukna baráttu fyrir því að eyða móthverfum á milli borga og sveita í Kína, eyða andstæðum á milli alþýðufólks og starfsliða Kommúnistaflokksins og leggja grunninn að allsherjar vélvæðingu landbúnaðarins fram til ársins 1980. Á sama tíma lögðu fjórmenningarnir til að kvenfatatískunni í Kína yrði breytt!

Það sem hins vegar er breytt í Kína nútímans, er að nú hefur fjöldinn lært að rökræða á pólitískum grundvelli. Því er það að alþýðan sjálf vísaði á bug hinni röngu pólitík og leysti talsmenn hennar frá trúnaðarstörfum sínum. Milljónir umræðufunda um framtíð Kína á vinnustöðum lágu þeirri ákvörðun til grundvallar.

Frávik frá fjöldastefnu

Fjórmenningarnir reyndu að koma sínum fulltrúa í áhrifamiklar stöður innan flokks og ríkis, meðal annars í stöðu formanns Kommúnistaflokksins að félaga Maó gengnum. En Mao hafði hins vegar látið í ljós fyrir andlát sitt, að hann treysti félaga Hua Kuo-feng manna best til þess að leiða flokkinn, og undir það hafa tugir og hundruð milljóna kínverja tekið. Þessu undu fjórmenningarnir ekki og reyndu að hrifsa völdin í flokknum, lykilinn að ríkisvaldinu, án þess að hafa verulegan stuðning alþýðu. Hefðu áformin um valdarán heppnast, þá hefði þar komið upp alræði fárra yfir fjöldanum og fjöldastefnu flokksforystunnar verið kastað fyrir borð. Þetta hefði örugglega leitt af sér vopnuð átök innanlands í Kína. Þar er öll alþýða manna nefnilega vopnum búin, þar er hver verkamaður eða bóndi hermaður og hver hermaður verkamaður eða bóndi. Vei því þeim leiðtogum sem fara af braut fjöldastefnunnar í hinu sósíalíska Kína.

Ríkisstjórn án alþýðustuðnings, sem komin er í andstöðu við þegna sína, verður að njóta stuðnings einhvers til þess að vera við lýði. Þar með myndi skapast möguleiki fyrir erlenda íhlutun í Kína.

Við teljum það rangt, að kalla fjórmenningana hóp af "vinstri-róttæklingum" eða þvílíkum nöfnum. Byltingarslagorð þeirra dylja ekki að hópurinn hefur spilað með framtíðarþróunina í Kína, til þess að komast þar til valda. Biturleiki fólksins í garð þeirra er því ofur skiljanlegur. Við lýsum yfir trausti á Kommúnistaflokki Kína og leiðtogum hans.

Nánar verður fjallað um baráttuna í Kína síðar í blaðinu.




# Mikil óánægja í BSRB

STÓRFELLDAR ÁRÁSIR RÍKISVALDSINS Á KJÖR ÓBREYTTRA STARFSMANNA SINNA UNDANFARIN MISSERI STOFNAR AFKOMU FJÖLMARGRA ALÞÝÐUHEIMILA Í VOÐA. MIKIL ÓÁNÆGJA HEFUR MAGNAST MEÐAL RÍKISSTARFSMANNA OG ERU NÚ MÖRG FÉLÖG ÞEIRRA AÐ HEFJA BEINA BARÁTTU GEGN OFRÍKI HINS OPINBERA. RÍKISSTARFSMENN ERU SKIPULAGÐIR I 2 HEILDARSAMTÖKUM, BSRB OG BHM.

Bandalag starfsmanna ríkis og bæja (BSRB) eru mjög stór launþegasamtök og í þeim er stór hluti þess vinnandi fólks sem minnst ber úr býtum fyrir sölu á vinnuafli sínu og býr við eymdarkjör.

Skýring þessa liggur einkum í því, að forystulið BSRB hefur um langan aldur gengið jafnvel enn lengra en sjálf forysta ASÍ út í stéttasamvinnu og stuðlað að útbreiðslu falskenninga um eðli þjóðfélagsins.

Engin furða er þótt formaður BSRB, Kristján Thorlacius, taki meira mið af hagsmunum ríkisvaldsins en hagi óbreyttra launþega í BSRB-félögunum. Hann er nefnilega deildarstjóri í fjármálaráðuneytinu! Í þeirri stöðu tekur hann þátt í ráðstöfun á ríkisauðmagninu og á því trúlega nokkuð öruggan stað meðal einokunarauðvaldsins íslenska.

Síðastliðinn vetur náðust samningar milli BSRB og ríkisins um að lögfestur yrði verkfallsréttur. Var þetta kallaður "mikill sigur" og mikilvægur áfangi. Full ástæða er þó til þess að vekja athygli fólks í BSRB á því, hversu mjög takmarkaður þessi verkfallsréttur er. Hann er mjög svipaður þeim skerta verkfallsrétti, sem ríkisvald, atvinnurekendur og ASÍ-forystan ætla sér að neyða upp á verkafólk í ASÍ. Hér skal aðeins bent á 5 atriði varðandi þennan verkfallsrétt BSRB:

1. Verkfallsheimild nær aðeins til aðalkjarasamnings, er með öðrum orðum í hendi BSRB-forystunnar.

2. Sérkjarasamningar einstakra aðildarfélaga lúta áfram kjaradómi, sem heitir nú kjaranefnd.

3. Verkfall þarf að boða með 15 daga fyrirvara og sáttanefnd (sáttasemjari ríkisins) hefur vald til að fresta verkfalli um aðra 15 daga.

4. Sáttatillaga sáttanefndar skoðast sjálfkrafa samþykkt nema yfir 50% félaga á kjörskrá greiði um hana atkvæði og yfir 50% greiddra atkvæða séu gegn henni.

5. Samúðarverkföll eru óheimil.

Af framangreindu sést, að þessi "verkfallsréttur" er hvergi sambærilegur við þann sem ASÍ-félögin hafa í dag. BSRB-félögin þurfa að knýja fram sambærilegan verkfallsrétt við þann sem ASÍ-félögin hafa og jafnframt veita ASÍ-félögunum fullan stuðning við að verja verkfallsrétt þann sem þau þegar hafa fengið.

## Aðgerðir í undirbúningi

Þessi umsamdi verkfallsréttur BSRB tekur fyrst gildi 1. júlí n.k. Kjaraskerðing fólks í BSRB er nú orðin tilfinnanleg og eykst stöðugt. Forystulið BSRB hefur látið það viðgangast að kjaradómur dómfesti kröfur ríkisvaldsins og hefur ekki hvatt félagsmenn til að hundsa skipulega slíka dóma.

En nú er mælirinn fullur hjá mörgum aðildarfélögum. Starfsfólk útvarps og sjónvarps hafa staðið í kjaradeilum og aðgerðum, en hafa hins vegar vanmetið stefnufestu og styrk ríkisvaldsins. Því hafa þessar aðgerðir ekki náð tilætluðum árangri.

Barnakennarar ríða nú á vaðið með verkfall og fleiri undirbúa aðgerðir. Það sem mestu máli skiptir nú, er það að allt alþýðufólk sýni öllum slíkum aðgerðum fullan stuðning og sameinist í markvissri baráttu gegn hinu gráðuga ríkisvaldi einokunarauðvaldsins.

Um fram allt: Treystið ekki í blindni á forystusveitirnar í verkalýðshreyfingunni. Þær eru uppkeyptir þjónar auðvaldsins að meira eða minna leyti.




Í bókabúð EIK(m-l) og Október-forlagsins að Laugavegi 178 er að finna úrval erlendra og innlendra bóka, einnig hljómplötur með norrænni baráttutónlist. Til dæmis fást þar hljómplötur með tónlist norsku hljómsveitarinnar Vömmöl Spellmannslag, sem er geysivinsæl í heimalandi sínu.

Við viljum að þessu sinni vekja athygli lesenda á bók frá Október-forlaginu norska sem væntanleg er í búðina innan skamms.

Þetta er bókin Spörsmål i Leninismen eftir Jósef Stalin. Þar fjallar félagi Stalin m.a. um baráttuna gegn gagnbyltingarsinnunum í Sovétríkjunum og er því bókin mikilvæg til stuðnings í baráttunni við trotskista og aðra óknyttahópa á Ísl.

Chileanst lag og ljóð
Þýð.: Þórarinn Hjartarson

## Nýir tímar



Einangrun, eymd og myrkur
og auðsins þrælabönd
örfa okkar kynslóð
til átaks hönd í hönd.

Þá svellur í myrkri söngur
um sameiningu fjöldans
og saman renna okkar raddir
í ramman ólgandi kór.

Svo göngum við út í vorið
við vinnuherta lið,
sigrumst á þeim er sundra
og sækjum fram á við.

Í nánd eru nýir tímar
hin nýja lífsskoðun lifir
Ríst' upp og efldu þinn málstað
Ríst' upp og sæktu þinn rétt.

Frá öllum stórum iðjuverum,
frá úthöfum og úr dal,
skólum, verkstæðum og verslun;
úr votum frystihússal
baráttunni kraftar bætast
sem boða auðvaldi grand
svo rennur loks upp dagur einingar
út um allt okkar land.



# Marx-lenínistar og verkalýður - sameinist!

EINS OG LESENDUM VERKALÝÐSBLAÐSINS ER KUNNUGT UM HAFA EIK(m-l) SENT FRÁ SÉR SAMEININGARGRUNDVÖLL ÍSLENSKRA MARX-LENÍNISTA. UM ER AÐ RÆÐA MEGINATRIÐI KOMMÚNÍSKRAR BARÁTTUSTEFNU OG MARX-LENÍNISMANS VIÐ ÍSLENSKAR AÐSTÆÐUR. EIK(m-l) LÝSA ÞVÍ YFIR AÐ SAMTÖKIN SAMEINIST ÞEIM SAMTÖKUM OG EINSTAKLINGUM SEM SAMÞYKKJA GRUNDVÖLLINN.

Sameiningargrundvöllurinn er mikilvægasta framlag til einingar ísl. marx-lenínista sem komið hefur fram og mun skilja á milli raunverulegra kommúnista og falsmarxista. Hann er undirstaða fyrir stofnun raunverulegs marx-lenínísks verkalýðsflokks.

## Viðbrögð KFÍ(m-l)

Kommúnistaflokkur Íslands (m-l) er ekki marx-lenínískur, heldur samtök þar sem barátta marx-lenínískrar stefnu og fals marxisma (endurskoðunarstefnu) fer fram, en endurskoðunarstefna er ríkjandi. Meðal annars sést það að flokkurinn heldur fast við að skemmdarverkastefna undirbúningssamtaka hans (KSML) hafi verið "marx-lenínismi með alvarlegum brestum". Enda er sama ranga afstaðan og KSML hafði (til dæmis afstaðan til stéttanna á Íslandi) ríkjandi í mörgum atriðum. Hentistefna, reikandi á milli endurskoðunarstefnu og marx-lenínískra stefnuatriða er því eitt aðaleinkenni flokksins.

EIK(m-l) hafa þá afstöðu að samvinna við KFÍ(m-l) um einstök baráttumál sé rétt og stuðli að framþróun marx-lenínismans innan flokksins. EIK(m-l) stefna fullum fetum að því að sameina alla þá sem unnt er að sameina um grundvallaratriði marx-lenínismans kenninga Maos Tsetungs og beina því sameiningargrundvellinum til KFÍ(m-l) sem heildar.

## "Vara við vinnubrögðum"

Fyrstu viðbrögð flokksins koma fram í samþykkt II. landsfundar miðstjórnar hans. Þar segir:

"..varar landsfundurinn við þeim vinnubrögðum sem ljóslega koma fram í svokölluðum "sameiningargrundvelli" EIK(m-l), þar sem reynt er að draga fram skilyrði og forsendur er vitað er að fyrirfram koma í veg fyrir sameiningu". (undirstr. Vbl. - Stb. 18. tbl. 76).

Þetta er allt og sumt. Ekki er neitt sagt um hvaða atriði um er að ræða, né að umræður geti átt sér stað um grundvöllinn við flokkinn. Hvað er miðstjórnin þá að fara? Ljóst er að hún lítur svo á að sameining marx-lenínista verði um þau atriði eingöngu, sem "allir" geti sameinast um, en ekki pólitísk grundvallaratriði. Slík afstaða er röng og einber hentistefna. EIK(m-l) hvika hvergi frá grundvallaratriðum málsins og vísa á bug öllu tali um "sundrungarstarfsemi" samtakanna, með framlagningu sameiningargrundvallarins.

Afstaða KFÍm-l er sú sama og KSML setti fram við tilraunir sínar við sameiginlega flokksstofnun með EIK(m-l) - þá átti að afgreiða afstöðu til grundvallaratriða marx-lenínismans eftir stofnun flokks. Við vitum að KFÍm-l á m.a. við afstöðuna til óframleiðins verkalýðs (skrifstofu- og afgreiðslufólks, o.fl.) sem mynda u.þ.b. helming ísl. verkalýðsstéttar. Miðstjórnin reynir að gera lítið úr þessu atriði í ofannefndri samþykkt - telur atriðið vera greiningaratriði sem ekki skipti höfuðmáli. En auðvitað er þetta undirstaða allrar baráttustefnu, undirstaða rétts skilnings á ríkisvaldi verkalýðs (alræðis öreiganna) og fleiri atriða.

Við vitum líka að KFÍm-l höfðar einnig til atriða í sameiningargrundvellinum sem varða forsögu flokksins - þ.e. hvort KSML hafi verið marx-lenínísk samtök frá upphafi eða ekki. "Látið fortíðina eiga sig, horfið á núverandi stefnu KFÍm-l, munið eftir sjálfsgagnrýni okkar" - þannig hljóðar boðskapur KFÍm-l til manna. En hvað kemur í ljós ef grannt er skoðað?

KSML hafði ranga afstöðu til allra helstu baráttumála í nærri 3 ár (1971/72-74) - var á móti útfærslu fiskveiðilögsögunnar í 50 mílur, sniðgekk stéttarfélög, réðst á herstöðvaandstæðinga og Víetnamnefndina, afneitaði bandalagi verkalýðs og vinnandi fólks (t.d. bænda) o.s.frv.

Misvægar tilraunir til sjálfgagnrýni á þessa afstöðu í einstökum málum breyta ekki þeirri staðreynd að samtök sem höfðu þvílíka stefnuafstöðu og ráku glórulausa einangrunarstefnu, gátu ekki verið marx-lenínísk - þau voru gagnbyltingarsinnuð skemmdarverkaklíka.

Þetta er eitt aðalatriðið sem réttlætti stofnun EIK(m-l) og gerði þau að fyrstu marx-lenínísku samtökum á Íslandi.

KSML lýsa því yfir að þau þurfi ekki að gera að fullu upp við þessa stefnu. Er hægt að treysta stefnu þeirra eins og þeir segja hana vera nú, í ljósi þessa? Nei.

En eitt er ljóst, miðstjórn KFÍm-l hefur enn treyst endurskoðunar- og hentistefnu sína varðandi uppgjör við sinn falsmarxisma. Þeir verða að viðurkenna, að sameiningargrundvöllurinn inniheldur grundvallaratriði marx-lenínisma beittum á ísl. aðstæður. Hann er því prófsteinn á það, hvort þeir reynast í verki sem þeir básúna í orði.

## Áframhaldið

EIK(m-l) ítreka kröfuna um svar við grundvelli sínum. Samtökin eru hvenær sem er reiðubúin til að mæta fulltrúum samtaka eða einstaklingum til opinskárra umræðna um sameiningarplaggið. Enn fremur er víst að plaggið og baráttan fyrir sigri marx-lenínismans yfir endurskoðunarstefnu og hentistefnu munu sameina ísl. kommúnista áður en langt um líður.

# Fræðikenningin er nauðsyn

## Námsstarf EIK(m-l)

Allt frá stofnun Einingarsamtaka kommúnista, hafa þau staðið fyrir skipulögðu námsstarfi í 5-10 manna hópum, þar sem fjallað er um þjóðfélagsmál og grundvallaratriði marx-lenínismans eru kynnt. Fjallað er um m.a. íslenska þjóðfélagið, þróun þess og stéttabaráttu á Íslandi fyrr og nú; um stéttafélögin, hlutverk þeirra og núverandi ástand; um baráttu erlendrar alþýðu fyrir frelsi og sósíalisma og skipulagningu framsækinnar baráttu á Íslandi. Ekki er þó svo að skilja að í námshópa þessa sé að sækja endanlegar lausnir allra vandamála, eða að umræður sem þar fara fram séu margflóknar fræðsluskylmingar, illskiljanlegar "venjulegu" fólki. Nei, þarna kemur saman fólk með ólíka lífsreynslu að baki. Sumir hafa lesið dálítið í pólitískum fræðum en skortir alla reynslu í baráttu - hafa ekki fært þekkingu út í starf með alþýðufjöldanum - fyrir fjöldann. Aðrir hafa lesið minna eða ekki, eru reynslunni ríkari í dægurbaráttu og vilja nú sækja sér styrk. Þannig getur hver miðlað öðrum sinni þekkingu. Sumir hafa sagt, eftir að hafa byrjað námsstarf með EIK(m-l), að það sé þó framar öllu að finna sig í félagsskapnum, að finna að maður stendur ekki einn.

### Fræðikenningin er nauðsyn.

En hvers vegna er nauðsynlegt fyrir verkafólk, sósíalista og alþýðusinna að kunna nokkur skil á marx-lenínismanum?

Hér skal drepið á fáein atriði:

1. Marx-lenínisminn vísar okkur leiðina til skilnings á:
a) uppbyggingu og eðli þjóðfélagsins sem við lifum í,
b) á mannkynsögunni frá upphafi fram á þennan dag,
c) á samtímanum innanlands og utan,
d) þjóðfélagsþróuninni - hvert stefnir

2. Marx-lenínisminn gefur leiðbeiningar um aðferðir til þess að steypa auðvaldsskipulaginu og byggja sósíalismann, ríki verkafólks og alþýðufjöldans. Hann kennir okkur að stéttabaráttan er eina aflið sem brotið geti á bak aftur stéttadrottnun auðvaldsins. En hann kennir líka að ekki er nóg að afla sér þekkingar, við verðum að ganga út í baráttuna og beita því sem við höfum tileinkað okkur.

3. Marx-lenínisminn er notaður við að byggja hið sósíalíska þjóðfélag, er alþýðan tekur yfir framleiðsluna og skipuleggur í eigin þágu.

Að lokum þetta: félagi Maó Tse-tung sagði einhverju sinni, að verðleikar ungs manns eða konu ákvarðist ekki af kunnáttu hans/hennar eða gáfum, heldur fyrst og fremst vilja til að gagnast sínu fólki, þjóna hinum vinnandi fjölda. Á þetta leggjum við áherslu í námsstarfi okkar.

## EIK(m-l)

Námsstarf EIK(m-l) í marx-lenínismanum er undirstaða baráttunnar!

LÁTIÐ SKRÁ YKKUR!

Skrifstofa og bókabúð EIK(m-l) er að Laugavegi 178, 2. hæð. Sími 84210.

Opnunartímar skrifstofu og bókabúðar EIK(m-l) að Laugavegi 178 hafa breyst.
Þeir eru sem hér segir:
Miðvikudagar kl. 4-7
Föstudagar kl. 5-7

## Sovétríkin í dag 2. grein



Kúgun í Sovétríkjunum birtist í ótal myndum. Hér má sjá lögreglumann á hesti leggja til atlögu við mótmælaaðgerð gegn árásarstríði Bandaríkjamanna í Víetnam utan Sendiráðs Bandaríkjanna.

(Mynd: KLASSEKAMPEN)

Í SÍÐASTA TÖLUBLAÐI BYRJUÐUM VIÐ GREINAFLOKK UM SOVÉTRÍKIN, STÖÐU ÞEIRRA OG EÐLI. FJALLAÐ VAR UM STÉTTAREÐLI SOVÉTRÍKJANNA, HINAR ENDURSKOÐUNAR EFNAHAGSLEGU "UMBÆTUR" OG STÖÐU VERKALÝÐSSTÉTTARINNAR.

HÉR KEMUR ANNAR HLUTI GREINARFLOKKSINS SEM,FJALLAR UM ANDSTÖÐU VERKALÝÐSSTETTARINNAR GEGN KÚGUN OG EFNAHAGSKREPPUM Í SOVÉTRÍKJUM NÚTÍMANS.

# Virk barátta alþýðu gegn kúguninni

Ráðamenn í Sovétríkjunum reyna með öllum ráðum að leyna kúguninni á sovéskum verkalýð og þeirri andstöðu sem hún að sjálfsögðu vekur. Þessi andstaða kemur fram í mörgum myndum. Í vestrænum fjölmiðlum heyrist aðeins sagt frá baráttu fáeinna borgaralegra menntamanna gegn yfirvöldum. Staðreyndin er hins vegar sú að síðustu árin hefur sovésk verkalýðsstétt einnig átt í stöðugt harðnandi baráttu.

Allt hagkerfið með sitt ákvæðislaunafyrirkomulag, bónuskerfi og efnahagslegar örvanir, er í sjálfu sér ótvíræð staðfesting á því að Sovétríkin eru stéttaþjóðfélag þar sem ríkjandi borgarastétt verður að nota kapítalíska framleiðsluhætti og launafyrirkomulag. Sífellt fleiri verkamönnum tekst vegna sinnar daglegu reynslu að sjá í gegnum hina "sósíalísku" frasa valdhafanna og gera sér grein fyrir að afstaðan milli hinnar ráðandi stéttar og vinnandi fólks í Sovétríkjunum er nákvæmlega sú sama og í öðrum auðvaldsþjóðfélögum.

Þar koma upp stöðugt víðtækari mótmælaaðgerðir, verkföll og ýmiss konar aðrar aðgerðir verkafólks sem fréttist mjög lítið af út fyrir Sovétríkin. Í sovésku tímariti um efnahagsmál kom fram að árið 1972 "töpuðust" 59 milljónir vinnudaga í iðnaði vegna fjarveru verkamanna eða skæruverkfalla. Samkvæmt bandaríska tímaritinu "Newsweek" sem vitnar í sovéskan hagfræðing, munu Sovétríkin af þessum orsökum tapa yfir 18 milljónum dollara árlega. Síðastliðin fimm ár hefur frést af skipulögðum verkföllum og mótmælaaðgerðum í borgunum Kiev, Rostov, Zvov, Dnepropetrovsk, Dneprodzerzhinsk, Vitebsk og Tbilisi.

### Staða bænda.

Meðal bænda ríkir einnig megn óánægja með hina endurskoðunarsinnuðu stjórn. Þetta sést meðal annars á stöðugum fólksflótta úr sveitunum. Á árunum 1959-7o var fólksflóttinn úr sveitunum 16.4 milljónir eða um 1,5 milljón íbúa sem flutti árlega úr sveitunum til borganna. Einnig eru fyrirbæri eins og léleg nýtni og lítil afköst algeng í sovéskum landbúnaði.

Allt helst þetta í hendur og er í samhengi við hnignun samyrkjubúanna, sem hefur verið á sama veg og í iðnaðarframleiðslunni. Á samyrkjubúunum er bændunum haldið utan við alla raunverulega stjórn á rekstrinum, meðan yfirmennirnir hafa öll völd í sínum höndum og ráðskast með eignir og framleiðslu búanna eftir eigin geðþótta.



Leiðtoginn Brésneff er haldinn bíladellu og hefur fengið að gjöf marga sportbíla frá erlendum þjóðhöfðingjum.

Í landbúnaðinum á sér ennfremur stað stöðugt vaxandi einkarekstur sem fer fram á samyrkjubúunum á einkalóðaskikum bændanna. Samkvæmt sovéskum heimildum var þessi einkaframleiðsla um 12% þeirra landbúnaðarvara sem fluttar voru á markað árið 1972.

### Skortur á neysluvarningi.

Framleiðsla neysluvarnings dregst sífellt aftur úr og leiðir af því skortur á mörgum vörutegundum. Aðeins 89% þeirra talna sem settar höfðu verið sem markmið í síðustu fimm ára áætlun náðust. Í landbúnaðinum er talað um stórslys. Kornframleiðslan mistókst gjörsamlega og varð árið 1975 aðeins 137 milljónir tonna sem er 8o milljónum minna en gert hafði verið ráð fyrir og 3o milljónum minna en varð árið 1972 þegar varð uppskerubrestur. Árið 1975 er ekki hægt að segja að veðrið hafi verið aðalástæðan fyrir hinni litlu kornframleiðslu eins og sjá má af því að landbúnaðarráðherra Sovétríkjanna var settur af á síðasta flokksþingi.

Þessi uppskerubrestur hefur leitt til síaukins innflutnings á korni frá hinum vestræna heimi. Meðal innflutningur korns var 3,7 milljónir tonna árin 1965-69 en óx upp í 1o,4 milljónir árlega 197o-74 og 1975 fluttu sóvétmenn inn 28 milljónir tonna af korni.

Kjötframleiðslan á sömuleiðis við mikla erfiðleika að etja. Á áratugnum 1965-74 var að meðaltali slátrað 9.8 milljón svínum færra en árið 1963. Fjöldi mjólkurkúa og sauðfjár stendur í stað. Fyrstu fjögur ár 9. fimm ára áætlunarinnar stóðst framleiðslan á kjöti, mjólk og ull ekki áætlun og árið 1974 varð að flytja inn 5oo.ooo tonn af kjöti. Þessi kjötskortur hefur leitt til fjöldaslátrunar og fækkunar á búfé.

### Efnahagskreppan.

Sovétríkin verða einnig fyrir barðinu á efnahagskreppum. Sá tími er löngu liðinn að hægt væri að tala um hinn kreppulausa sósíalíska heim (Sovétríkin) sem andstöðuna við hinn kreppuhrjáða auðvaldsheim. Sovéska hagkerfið á við að stríða sífellt stærri áföll bæði í iðnaði og landbúnaði.

Sovétmönnum mistókst á flestum sviðum að halda 9. fimm ára áætlunina (1971-75), Frá 1956 hefur aukning þjóðartekna, iðnaðar- og landbúnaðarframleiðslu stöðugt minnkað. Aukningin sem gert var ráð fyrir í 9. fimm ára áætluninni var á þessum sviðum 36%, 28% og 69% minni en í 6. fimm ára áætluninni (1956-6o). Sé þetta borið saman við 8. fimm ára áætlunina (1966-7o) eru sömu tölur yfir aukninguna 6%, 6% og 13% lægri. Þar við bætist að það mark sem sovétmenn settu sér í 9. fimm ára áætluninni náðist alls ekki. Þjóðartekjurnar náðu árið 1975 aðeins því marki sem sett hafði verið fyrir árið 1974!

### Þungaiðnaðurinn eflist - lífsskilyrðin versna

Þessi efnahagslegu vandamál hafa komið mjög hart niður á lífsskilyrðum hins almenna verkamanns í Sovétríkjunum. Þar eru stöðugar verðhækkanir á matvörum og öðrum daglegum nauðsynjum, auk þess sem skattarnir hækka sífellt. Samkvæmt sovéskum tölum var meðal skattur á hvern verkamann árið 1973, 157,6 rúblur á móti 84,1 rúblu 196o. Þetta er 87,4% hækkun.

Í iðnaðarframleiðslunni lítur myndin nokkuð öðru vísi út. Það er sérstaklega í þeim 6o% iðnaðarins sem beint eða óbeint er í vopnaframleiðsluni. Á þessu sviði er mjög mikil framleiðsluaukning. Á árunum 1971- 75 var framleiðsluaukningin í vélaiðnaði 7o%, rafeindaiðnaði 8o% og tölvuiðnaði 3oo%. Allar þessar greinar tengjast hergagnaiðnaðinum.

Frá árinu 1973 hafa Sovétríkin notað stærri hluta þjóðartekna sinna til hergagnaframleiðslu en Bandaríkin. Á sama tíma ríkir mikill skortur á flestum neysluvörum. Í árslok 1974 voru áætlanatölur fyrir framleiðslu neysluvarnings lækkaðar um 25% en samt hefur því marki ekki verið náð.

Í næstu grein verður fjallað um hlutverk Comecons, afstöðu Sovétríkjana til þriðja heimsins og þjóðfrelsisbaráttu þar.

## STÓRSIGUR Í ASB

Frh. af 1. síðu

á fund Kaupmannasamtakanna eftir tilvísun frá stjórn Samsölunnar. Höfðu forsvarsmenn kaupmanna uppi fögur loforð um að senda menn í allar matvörubúðir á Reykjavíkursvæðinu til að kanna aðstöðu og áhuga kaupmanna á því að hefja mjólkursölu og hvort þessi stutti fyrirvari sé þeim hentugur. Þessar upplýsingar var mikilvægt fyrir mjólkurbúðakonurnar að fá, þar sem samniganefndin berst nú fyrir því að a.m.k. 25 búðum verði áfram haldið opnum í þeim hverfum sem nauðsynin er brýnust. Á þann hátt yrði hluta eldri kvennanna tryggð vinna áfram. Kaupmannasamtökin brugðust trausti kvennanna; "þeir reyndu bara að klóra yfir skítinn sinn" eins og ein konan komst að orði. "Sendimaður" kaupmanna fór aðeins í 6 búðir.

Nú hefur verið lokað um 15 mjólkurbúðum og áhrif þess þegar farin að koma í ljós. T.d. eru neytendur sárreiðir, þar sem margar mjólkurvörur skortir oft þegar líða tekur á daginn. Meira þarf því að hafa fyrir innkaupum og alltaf þrengist að smákaupmönnum.

### Baráttan framundan

Nú er mikilvægt að mjólkurbúðakonur standi saman um þá kröfu samninganefndarinnar að Samsalan reki a.m.k. 25 búðir áfram. Margoft hefur komið fram að ekkert í lögum hamlar henni að reka áfram búðir sínar. Ennfremur vill Verkalýðsblaðið minna á þá staðreynd, að hjá Ráðningaskrifstofu Reykjavíkurborgar er þegar fjöldi atvinnulausra eldri kvenna á vonlausum biðlistum.

Mikilvægt er, að önnur aðildarfélög ASÍ veiti mjólkurbúðakonum allan þann stuðning sem þær fara fram á, svo að kröfur þeirra nái fram að ganga. Óbreyttir félagar í stéttarfélögum verða að þrýsta á um að félög þeirra lýsi yfir stuðningi við baráttuna, líkt og reyndin hefur verið með Iðju, félag verksmiðjufólks.

Berjumst gegn stéttasamvinnunni og öllu baktjaldamakki!

## Lögreglan ...

Frh. af 3. síðu

afplána nú dóma sína eða eru að ljúka því um þessar mundir.

Orsök allra þessa ofsókna á hendur framsæknu fólki eru þær, að auðstéttin óttast þá miklu breiðfylkingu kommúnista og verkafólks, sem nú vex hröðum skrefum í landinu.

### Fasisminn blómstrar

Borgarastéttin undirbýr "löglega" innleiðingu fasisma á borð við Hitlers-aðferðina - þ.e. eftir leiðum hins borgaralega þingræðis. Samþykkt er í þinginu að setja á lög um "innra öryggi landsins". Þessi lög fela í sér að hægt er að dæma fólk sem rekur áróður fyrir aðgerðum í þágu stéttabaráttu í allt að 3 ára fangelsi.

Ný lög leyfa líka víðtækar persónunjósnir. Símar eru hleraðir, hljóðnemar eru í heimahúsum og á veitingastöðum osfrv. Lögreglu er heimilt að beita skotvopnum gegn þáttakendum í kröfugöngum og í verkföllum.

Síðast en ekki síst eru svo lögin gegn "hryðjuverkamönnum", sem veita heimild til ótakmarkaðra fangelsana án dóms og laga, td. vegna gruns um að viðkomandi tilheyri, eða hyggist koma á laggir, "glæpsamlegum samtökum". Sú skilgreining nær yfir Kommúnistaflokk Þýskalands/ML, bróðurflokk EIK(m-l).

## Fóstrur ...

Frh. af 1. síðu

upp sá afturkippur sem orðið hefur síðastliðið $1\frac{1}{2}$ ár. Þetta verður fyrsta skrefið. Ég hvet alla til að leggja málinu lið.

Fundur var svo haldinn á vegum fóstrufélagsins 1. nóv. s.l. og þangað boðaðir fulltrúar frá félögum framhaldsskólanema og stéttarfélögum.

Stofnaðir voru 3 starfshópar á fundinum. 1. starfshóp er ætlað að sjá um dreifingu frétta til fjölmiðla. Verksvið 2. starfshóps er að forma tillögur að aðgerðum. Sá 3. vinnur að stefnumótun. Hvetjum við alla til að fylgjast með fréttum frá starfshópunum og taka fullan þátt í baráttunni fyrir nægum dagvistunarplássum. Verkalýðsblaðið mun segja frá frekari framvindu mála í næsta blaði.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)

LAUGAVEGI 178, 2. HÆÐ
POSTHÓLF 5186, REYKJAVÍK
SÍMI 84210 - 35904

Gerist áskrifendur

Stuðningsáskrift: kr. 2500 Ársáskrift: kr. 1500
Hálfársáskrift: kr. 800

Áskrift greiðist á gíró 12200

ASÍ-þingið:

# Stéttasamvinna bundin í stefnuskrá

ÞING ALÞÝÐUSAMBANDS ÍSLANDS HEFST 29.NÓVEMBER. Í TILEFNI AF ÞVÍ HAFA FORKÓLFAR A.S.Í. SENT TIL VERKALÝÐSFÉLAGANNA DRÖG AÐ STEFNUYFIRLÝSINGU ÞESS.

A.S.Í. forystan hefur mörg orð og fögur um hvað nauðsynlegt sé að almenn umræða verði í verkalýðsfélögunum um stefnuyfirlýsinguna. Efndir á því eru hins vegar engar. Ekkert er gert til þess að skipuleggja umræðu innan verkalýðsfélaganna. Félögum í verkalýðshreyfingunni er jafnvel neitað um að fá yfirlýsinguna og borið við að verkalýðsfélagið hafi aðeins fengið eintök handa stjórninni. Slíkt er lýðræðið í verkalýðsfélögunum. "Almenna" umræðan á aðeins að ná til stjórnanna en ekki til hins óbreytta verkafólks.

En víkjum nánar að sjálfri stefnuyfirlýsingunni. Í upphafi hennar er vitnað í lög alþýðusambandsins þar sem segir að A.S.Í. eigi " að hafa forystu í stéttabaráttu alþýðunnar á Íslandi" Þetta eru góð og gild orð svo langt sem þau ná. En þegar stefnuyfirlýsingin er lesin nánar kemur í ljós að hvergi er annars staðar minnst á stéttabaráttu alþýðunnar. Hins vegar er talað fjálglega um "sambúðarmál aðila vinnumarkaðarins" og "samstarf við samtök vinnumarkaðarins". Það sem baráttufúsir og stéttvísir stofnendur A.S.Í. nefndu réttilega stéttabaráttu heitir nú samstarf og sambúð hjá hjálparkokkum auðvaldsins í forystu A.S.Í.

## Gat í báða enda.

Eitt einkenni á stefnuyfirlýsingunni er að hún er fádæma loðin og má túlka hana á marga vegu. Hvað felur t.d. eftirfarandi tilvitnun í sér? "Því berst hún (verkalýðshreyfingin innskot Vbl.).. gegn íhlutun erlendra auðhringa í atvinnu og fjármálum. Hún vill stuðla að afnámi hernaðarbandalaga og þar með eyða þeirri hættu sem herstöðvar hafa í för með sér". Þetta er aðeins eitt dæmi af mörgum að þar sem settar eru fram "framsæknar" kröfur eru þær svo óljósar að augljóst er að A.S.Í. forystan ætlar aldrei að standa við þær.

Í faglegu baráttunni koma svik A.S.Í. forystunnar hvað skýrast í ljós. Í stefnuyfirlýsingunni er ekki sett fram krafan um fullar vísitölubætur á laun. Aðeins er talað óljóst um verðlagsbætur og "launaskrið". Greinilegt er að rauðu strikin eiga að gilda um ófyrirsjáanlega framtíð. Verkafólk þekkir best sjálft þvílíkt kauprán þrífst í skjóli þeirra. Í stefnuyfirlýsingunni er heldur ekkert á það minnst að atvinnurekendur eigi að víkja úr stjórnun lífeyrissjóða. Það er þó sjálfsögð réttlætiskrafa því lífeyrissjóðirnir eru eign verkafólks og atvinnurekendur eiga þess vegna ekkert að ráðskast með þá.

## A.S.Í. forystan tekur undir söng atvinnurekenda.

En A.S.Í broddarnir bera mikla umhyggju fyrir atvinnurekendum eins og eftirfarandi tilvitnun úr yfirlýsingunni sýnir:"Mikilvægar orsakir tekjumismunar(verkafólks innsk. Vbl.) eru að oft skortir á að atvinnugreinar og fyrirtæki njóti eðlilegs hlutar í þjóðartekjum,...." Hér tekur A.S.Í forystan hraustlega undir eilífan tapsöng atvinnurekenda. Boðskapur hennar er:Látið auðvaldið fá meira fé svo það geti borgað verkafólki hærra kaup. Við segjum hins vegar: Það skiptir engu máli þó að tekjur fyrirtækja aukist. Kaup hjá verkafólki hækkar því aðeins að það berjist sjálft fyrir því eins og þúsund dæmi sanna. Hins vegar er greinilegt að A.S.Í. forystan vill ekki að verkafólk berjist sjálft fyrir bættum kjörum. Hún ætlar að setja fram kjarakröfur og einoka kjarabaráttuna og samningaviðræðurnar enda segir í yfirlýsingunni að heildarstefnan í kaupgjaldsmálum eigi að vera ákveðin af heildarsamtökunum, þ.e.a.s. A.S.Í.

## Aukin stéttasamvinna.

Eftir lestur stefnuyfirlýsingar A.S.Í. forystunnar er ljóst að hún boðar aukna stéttasamvinnustefnu og er því árás á hagsmuni verkalýðs. Þess vegna ber að berjast gegn stefnuyfirlýsingunni þar sem færi gefst, einkum innan verkalýðsfélaganna. Sú barátta er þegar hafin af stéttvísu verkafólki. Hins vegar er rétt að benda á að enn hættulegri árás steðjar nú að verkafólki þ.e.a.s. frumvarp að nýrri vinnulöggjöf. Í baráttunni er nauðsynlegt að tengja þessi tvö mál saman þar sem baráttan gegn vinnulöggjöfinni skipar æðri sess en barátta gegn stefnuyfirlýsingunni.

Verkalýðsblaðið skorar á stéttvíst verkafólk að fjölmenna á fundi í verkalýðsfélögum og kveða niður vinnulöggjöf auðvaldsins og undansláttarstefnu A.S.Í.broddanna eins og hún birtist í stefnuyfirlýsingu þeirra. Þetta eru tvær greinar á sama meiði.

Undirskriftasöfnun sjómanna:

# VÍÐTÆKUR STUÐNINGUR!



2. NÓVEMBER VORU AFHENTIR UNDIRSKRIFTALISTARNIR GEGN BRÁÐABIRGÐALÖGUM RÍKISINS TIL SKERÐINGAR Á KJÖRUM SJÓMANNA, ALLS 12.55o NÖFN.

Í fréttatilkynningu segja sjómenn að baráttunni sé alls ekki lokið með afhendingu listanna.

Tilgangurinn með undirskriftasöfnuninni var:
1. Að fá Alþingi til að nema bráðabirgðalögin strax úr gildi.
2. Að sýna fram á samstöðu og eindreginn vilja sjómanna til að verja rétt sinn og berjast gegn þeirri kjaraskerðingu sem lögin fela í sér.
3. Að sýna fram á hug annarra launþega til baráttu sjómanna og þess fordæmis sem lögin skapa, verði þeim ekki hrundið.

Undirskriftirnar einar verða auðvitað ekki til þess að Alþingi nemi lögin úr gildi, sameinuð barátta sjómanna leiðir til sigurs.

## Undirskriftasöfnunin liður í sameiningu.

En undirskriftirnar eru einmitt liður í að mynda þá sameiningu sjómanna sem til þarf ef sigur á að vinnast, og aðrir launþegar hafa einnig fengið tækifæri til að sýna samstöðu. Kjaradeilur sjómanna hafa hingað til einkennst af stéttasamvinnu forystumanna sjómanna, annars vegar og hins vegar af eindregnum vilja sjómanna að þeirra kjör yrðu leiðrétt. Forysta sjómanna, algerlega slitin úr tengslum við hinn almenna félaga, hunsaði vilja sjómanna og stóð uppi með alls óviðunandi samning þar sem kjaraskerðingar á kaup sjómanna voru einráðar. Enda kom á daginn að samningnum var hafnað og það meira að segja tvisvar.

## Stéttasamvinnustefna verkalýðsforystunnar þjónar atvinnurekendum.

Svona lúmskur andstæðingur er stéttasamvinnan og þar sem hún er í forystu verkalýðsins og hvar sem er. Hún hefur alltaf verið og mun alla tíð verða andstæðingur verkalýðs í stéttabaráttunni. Það má segja um flest verkalýðsfélög hér á landi að forysta þeirra þjónar auðvaldinu með því að hampa stéttasamvinnunni, og höndlar við atvinnurekendur verkalýðs umbjóðenda sinna. Þessar svikaforystur með stéttasamvinnuna að leiðarljósi og markmiði þjóna ekki baráttu vinnandi alþýðu fyrir lífvænlegum launum.

Þegar sjómenn felldu samningana höfðu útgerðarmenn enn einn samherja sem ekki brást, ríkisvaldið, tæki einokunarauðvaldsins. Það er notað til að kúga vinnandi alþýðu á allan hátt. Núna setti það lög, lög sem banna sjómönnum að semja um kaup sitt og kjör og taka af þeim réttinn til að fylgja þeim eftir, verkfallsréttinn.

## SJÓMAÐURINN

Sjómaðurinn er málgagn samtakanna Frjáls samningsréttur en þau berjast gegn bráðabirgðalögunum sem sett voru til höfuðs samningsréttar sjómanna. Blaðið kostar kr. 1oo og fæst hjá Sigurpáli Einarssyni, Grindavík.

## FÓLKIÐ SKAPAR FRÉTTIRNAR



Áætlað er að útgáfutíðni blaðsins aukist á næsta ári.

| | | |
|---|---|---|
| Stuðningsáskrift | kr. | 2500 |
| Ársáskrift | " | 1500 |
| Hálfsársáskrift | " | 800 |

Nafn............................

Heimilisfang....................

............................

............................

VERKALÝÐSBLAÐIÐ Laugaveg 178
eða pósthólf 5186 R.vík

VERKALÝÐSBLAÐIÐ BIRTIR ÞÆR

# 1/2 MÁN. BLAÐ '77!

200 Áskrifendur



200 þ. Krónur



80

67.782

Nú er kominn nóvember og söfnunin okkar er því hálfnuð og vel það. Eins og sjá má, vantar mikið upp á það að markmiðum okkar hafi verið náð.

Tökum á, fyllum kvótann'.

